# X. Umþeinking Af Degenum.

Joh. XI. v. 9.

Hver hañ geingur um̃ Dageñ, Saa steiter sig elge.

NOkker DAgar eru ecke eins, aller Meñ og ecke helldur. Stundum er Kallt, stundum Heitt, Þess aa mille Gott, Þess aa mille Jllvidre, Þo eigum vier af hverium DEge aa þeim Effsta Dege Reikningskap ad giøra. DAgar vors Lijfs eru stutter. Til þess sem vier giørum aa þeim, þurfum vier þo leinge ad svara. Bølvadur maa saa DAgur vera, aa hverium vier høfum ecke neitt þad giørt, sem Gude er til Dyrdar, eñ oss til Saaluhiaalpar: Eñ hvad marga DAga høfum vier þo med þessum Hætte laated lijda? Ef aller vorer DAgar kyñu ad tala, mun-

dum vier hafa so marga Aklagendur, sem vor Augnablik æ þeim vered hafa. David bad Gud, ad hañ villde kieña sier, ad telia edur reikna sijna Daga, so ad hañ forsiæll yrde. Sæ hærste Forsiællegleike er þad, Ad vier reiknum æ hverium DEge Tølu vorra Misgiorninga, so ad þeirra Tala verde ecke ofmikel, Og um sijder ein Otelianleg Suma. DAgureñ er af Gude skapadur, til þess ad Madureñ skyllde æ hønum giøra sijn Verk og Erfide. Sæ giører þad besta Verk, sem erfidar so fyrer siælfañ sig, ad hañ burtvellter þeim Þwnga, sem æ hañs Hiarta og Sæalu liggur, Pad eru Syndernar. Eñ ad verda lauser vid þær, þurfum vier þar til sierdeilislega Fioora DAga: Sæ Fyrste hlijtur ad verka hiaa oss Vidbiood og Leida a Syndunum. Af þeim uppstijgur fyrer Gud eirn Andstyggelegur Odaun. Sæ sem fiñur øngvañ Odaun af sijnum Syndum, hønum er eingeñ Opocke nie Vidbioodur æ þeim. So sem Odauneñ er illa Luktande fyrer Vitunum, So eru Syndernar fyrer Himnenum: Þar fyrer verdur þeim Ogudlegu samlijkt vid þau fwlu Kid, hverium

lum Doomare alls Hollds mun at Effta Deige frat sier vijsa. So leinge sem vier laatum Syndernar liggia i voru Skaute, og vier hofum þær til þess ad laata Dieful-eñ kieña af þeim þañ Daun, sem hønum giedlast betur eñ nockur Ilmande Breñe-Foorn, Elskande Syndena i Hiarta, Si-ñe, Huga og Handa-Verkum, erum vier at Himnum fyrer Gude Ein Andstigd. Sa Añar Dagur hlijtur ad vera Eirn Hrædslu og Skielfingar Dagur. Stoor-Brota-Madureñ hrædest fyrer hañs Doomara, og hañs Hrædsla hneiger opt Hiarta Doomarañs til Medaumkunar. Ef vier hrædunst ecke fyrer Gude, erum vier sem adrer Gudleysingiar. Þesser gaanga at þeim Vege, sem liggur til Helvijt-skrar Gløtunar, og eru Børn aan Otta. Þeir hafa yfergiefed Guds Vegu, og allre þeirre Æru, er þeir aattu hønum ad veita, frat sier kastad, og hverke Ottast þeir nie skamast sijn þar fyrer. Illvirkeñ Ott ast þo Vond Bodulsins. Marger Meñ Ottast ecke vegna siña svijvirdelegra Synda, hverke fyrer Helvijte nie þeim strænga Einvallds Doomara allrar Veralldar-
 eñar.

eñar. Pad er Teikn Eins Siwkdooms, ſaa ed eige verdur Lækuadur, Pegar hüñ Siwke, epter pad optlega hefur vered bunded uñ hañs Saar, og þau hafa uppſkoreñ vered, ſpottar Læknis-Hønd ſijns Græd ara. Saa Pridie Dagureñ aa ad vera Eirn Ydrunar og Angurs-Dagur vegna Syndaña. An þeſs vier giorum Ydran, verda oſs ecke Syndernar fyrergiefnar. Haf-Sioo þeirra Skadſamlegu Laſta og Lyſtinga verdur ecke fraa oſs burtveitt, nema þar til kome Sañarleg Ydran. Guds Naad var þad ad þacka, ad Petur fieck Naad, Eñ þo epter þad hañ hafde Graated Beiſklega. Hañ ſem Dyr ſiña Augna vill ei upplaata, ſo ad fyrer Syndunum ſie upploked, og þeim i burtu vijsad, Kañ ecke ad faa JESUM til ad iñgaanga i ſitt Hiarta. Vatns Taar af Augum þeſs ſem af Hiarta ydraſt, giøra Frelſarans-Hiarta breñande til ad giøra þad ſem ſaa Harmande Syndare gyrneſt.

Saa Fioorde Dagureñ aa ad vera vor Erfidis-Dagur. Vor Chriſteñdoomur heimter Erfide af oſs. Saa ſem ſefur, miſſer opt þad, hvertu hañ hefde kuñad

vak-

vakande ad behallda, Sæ sem Ydiusamur er i sañre Gudrækne, uppbygger siælfañ sig Gude til eins Heilags Musteris. Flester vorer Dagar eru vissulega uñlidner: Eñ lætum þa so marga sem epter kuña ad vera, i Jdkun Gudrækneñar fram leidast. Opt verdur æ Einu Augnabliki afrekad, þad sem æ mørgum Dege hefur illa forsoomad vered. Vier villium æ þessum Dege leita Nadar og Myskunar hiæ Gude, til ad fullkomna þad gooda Verked, allt til þess Dags JEsu Christi (a), Og vilium þar uñ bidia Nott og Dag Sierdeilislega (b). Vier erum Dagsins Børn, (c). Lætum oss þar fyrer gæanga so sem æ Dege. Dagur Christi er þegar fyrer Hondum, seger Paulus, 2. Thess. 2. v. 2. Coronañ er eirneñ fyrer Hondum, sem DRotteñ mun giefa hinum Froomu, þegar vor Goodverk koma fyrer Dageñ (d), og þad sem vier hof um adhafst æ vorum Lijfdøgum. Vier vilium giøra þad hid Gooda, hvad hellst vier gietum vora Lijfdaga: Eñ hiælpa

 þu

(a) Phil. 1. v. 6. (b) 1. Thess. 3. v. 10. (c) 1. Thess. 5. v. 5. (d) 1. Pet. 2. v. 12.

þu oſs ONottẽ Gud af Naad þiñe, aa øllum vondum Døgum, til þeſs Eilijfa Himneſka Fagnadar, Amen.



# XI. Vmþeyaking.

Af

# Noottuñe.

Pſalm. XLII. v. 4.

Mijn Taar Pau Eru Mijn Fædſla Dag og Noott.

NOOtteñ er valla nockurs Mañs Vinur: Eñ hiellde eingeñ med heñe, yrde ecke ſo mørg Myrkra-Verk frameñ, Sem giørd eru. Dag og Noott hefur Gud giørt: Eñ þegar NOtteñ er giørd ad Degenum og Dagureñ ad NOtt uñe, þad hefur Díøfulleñ giørt .Marger vaka aa NOttuñe, og ſofa aa Degenum: Pad hefur Gud ecke tilſett, er NOttena hefur ſkickad til Hvijldar, Eñ Dageñ til Erfid-

Erfidis. Sumer sitia laangt framñ aa NOtt til þess ad fylla sig af vormu Vijne, ad leika Spil og Kotru, edur sedla Bwkeñ af Hollds og Bloods Vellystingum: Eñ mun þetta vera riett? Flester giora af Degenum NOttena, Þeir syndga i Leynum, Eñ Gud straffar þaa Openberlega: Oll þeirra Verk eru Nætur-Verk, Og verda giord i Kofum, þar sem allra Handa Otugt er frameñ: Þeir bera aungvañ Kvijda fyrer þeirre Eilijfu NOtt, sem Sijdarmeir mun yfer þa koma. NOtt Myrkraña hefur Allmargra Hiortu og Siñe so Formyrkvad, ad þeir gaanga aa Degenum, So sem være þeir i Egypta-Lands Myrkrum, Þar saa Eiñe kuñe ecke ad siaa hiñ Aññañ; Gud sier alla. Hvorneñ mun þessum Nætur-Doolgum vilia gaanga, þegar saa mikle Dagur uppreñur, aa hverium af øllum verdur Reikningsskapur heimtur, og Skijla Myrkraña, sem oss villt hafa, er i burtu-tekeñ, og øll vor Verk verda berlega i Lioos leidd? Fyrer Møñunum kuña Marger ad fela sig: Eñ Eingeñ fyrer Gude. Þu Ogudlege! Ef þijn Saal verdur af þier krafeñ aa

þessare NOttu (a). Ertu Neidubweñ? Sañarlega ecke: So er Von þier gange Illa i NOtt, Og eñ verr þær Epterkomande Nætur, og þo samt villtu giefa þig i þijna Sæng: Eñ giører þu þad med þessum Hætte aan Ydrunar, So verdur þijn Sæng, þitt Helvijte. Og a þessu er eingeñ añar Mismunur eñ saa, ad mille heñar og þess, aattu epter Eirn lijtiñ Tijma Olifadañ. Ef þu lifer sialfum þier, verdur þitt Synda-Registur þiñ Aklagare, Þvo þad þa af med Taarum Ydrunareñar, so þad giete þier ecke Slijdarmeir Mootmæle veitt. Giør þig lausañ vid þijnar Synder, sem þu drygt hefur. Þu veitst ecke hvad a epterkomande NOttu kañ ad skie. NOtteñ kiemur, nær eingeñ fær verkad (b). Nu er Tijme ad giøra sig Neidubweñ, adur eñ Sooleñ fullkomlega undergeingur. Taktu i burtu þa Skijlu, sem er fyrer þijnum Formyrkvudu Augum, so ad Sool Riettlætesins JEsus meige þig upplijsa. Pad sem i Myrkrunum er skied, Laat þig angra Opeñberlega, so muntu þess Opeñbera Guds Fyrerheit-

(a) Luc. 14. v. 2. (b) Joh. 9. v. 4.

erheitis, ad eingeñ, sem aa Christum trwer, skule fyrerfaraſt, Niootande verda. Peinktu uñ þa Helvijtsku NOtt, aa hvor re þeir Fordæmdu pijnaſt. Stoorum gagnar þier ad gyrnaſt epter þeim Himneska Dege, og laata NOtt Syndareñar burtlijda, Og i Looſe eins Christelegs Lijfernis ad gaanga. Þeſſe Dagur er ſnart uñlideñ, med hønum eru og lidnar allar þær Synder, sem þeir Froomu hafa i Dag lided. So hiaalpar Gud ad wtendaEirn Dagiñ epter Añañ, þaangad til ſiw skiæra Morgun-Stiarna uppreñur, nær Meñ hafa ecke framar ad kvijda fyrer neirnre Eynid edur Anaudum. Vier hliootum ad bijda epter þvi, er aa þeſſare tilkomande Noott mun ſkie: Hvert helldur hun verdur oſs Hrædſlu edur Huggun ar Noott (c), mun Gud hiaalpa oſs, hana og adrar vel ad enda, þar til ſu Sijdarsta kiemur, sem verda mun hin Besta, aa hverre vier munum fraa ollu Illu leidder verda. Margur kañ med David, ad vera ſo mæddur af Andvarpan, ad hañ bleiter uñ alla NOttena ſijna Sæng,



(c) Job. 7. v. 14.

ng, og væter i Taarum sitt Legu-Rwm (d) og kallar a NOttu og Dege til Guds sijns Hiaalprædis (e), og siñur þo valla ad Morgne, þad, med hveriu hañ giete sig huggad. So geingur þad til fyrer oss i Verølldune: Eñ sijdar mun þad betur falla. Hier verdum vier fædder a Harma-Braude Tijmañlega, Eñ a Himnnum med Hunaang-sætre Huggun og Fagnade eilijflega: Epter þvi hlïootum vier ad þreygia, og þetta med Poleñmæde ad uñlijda, og vona uppa DRottenn fra Eirne Morgun-Vokuñe til Añarar. Vier villium Ottast Gud, bæde Noott og Dag (f), Og þeinkia uñ hañs Løgmaal Dag og Noott (g). Gud, sem vitiar vors Hiarta a Naattar-Pelenu (h), mun vorum veikum Anda Styrk giefa, ad hañ falle ecke nie Orvænte. Ef vier miñunst hañs Nafns a NOttuñe (i), verdur hañ vor Hlijf og Skiolldur, J giegn Andlegu og Lijkamlegu Dags og Nætur Faare og Freistingum. Vor Sæng, J hverre vier leitum

(d) Psalm. 6. v. 7. (e) Psalm. 88. v. 2.
(f) Deut. 28. v. 66. (g) Jos. 1. v. 8.
(h) Psalm. 17. v. 3. (i) Psalm. 119. v. 55.

leitum DNotteñs (k), verdur oß þa ad Eirne Andlegre Paradijs, þaangad til vier faaum komest til Himneskrar Hvijldar i Abrahams Skaute. Voku-Madur! Er NOtteñ snart wte (l)? So hroopum vier þegar vier lijdum og oß leingest epter Hiaalpeñe. Vor Augu munu ecke wtaf sofna i Daudanum, Lijka vel þo vier gøngum til Svefns i þvi dimma Naatur-Myrkre Grafareñar. Sw NOtt lijdur skioott, og epter hana klemur Upprisañ, þa eru og allar vorar Eymda-Naatur wte, og saa Eilijfe Zions Dagur, med Himneskum Dijrdar-Liooma fyrer Augunum, aa hønum hlijtur Nootteñ ad vijkia fyrer Liooseñu. Laatum oß vera Stadfasta i Baaneñe, Dag og NOtt (m), So mun Gud vort Land og Heimkyñe, og alla oß, sem þar iñe bwum, fyrer Ahlaupe og Vallde vorra Ovina, vardveita, og fyrer Makt siaalfra Helvijtis Myrkra. Diøfulleñ aaklagar oß Dag og NOtt fyrer Gude (n): Christur bidur fyrer oß Oaflaatanlega frame fyrer sijnum Himneska Fød-



(k) Cant. 3. v. 1. (l) Esa. 21. v. 11.
(m) 1. Tim. 5. v. 5. (n) Apoc. 12. v. 10.

ur. Ef vier hølldum oſs vid hañ, Kañ Satan oſs alldrei ad ſkada. A þeſſare NOttu Oſka eg mier og øllum Guds Elſkurum, Ad ſiaalfur Gud ſie oſs ſu Ohultaſta Skijla, Einglarner vorer Vaktarar, Og ſaa Heilage Ande, ſem er Ande Lioosſins, Verndare alls þeſs, ſem vier villum vardveitt ſie til Morgun-Dagſins: Uppreñe þa JESUS, Sw ſkiæra Morgun-Stiarna i allra vorra Hiørtum. Sofe Lijkameñ, Eñ Saaleñ vake: So munum vier aller Gude til Lofs og Dijrdar uppvakna, Amen.



## XII. Umþeynking Af Morgnenum.

Amos IV. v. 4.

Bered fram̃ ydar Offur a Morgnana.

MOrgun-Stund hefur Gull i Munn, ſegium vier i Almeñu Maaltæke. Alldrei komum vier Ofſnema til Guds: Þeſs hefur marga ydrad, Er þad

hafa seint giort. Þegar eirn Stadur edur Festing er apturlæst, Kañ eingeñ epter Almeñelegre Skickan þar iñ ad komast. Þad sem Stadar-Vaktaranum er Leifelegt fyrer utañ almeña Reglu ad giøra, stendur i hañs Vallde. Siaalfs Guds Borg, Sw nya Jerusalem, hefur Toolf Port (a): Eñ þeim øllum verdur læst aa einum Tijma, Og verdur alldrei aptur upplokad uñ alla Eilijfd. Vilie nockur grenslast epter þessu af þeim Fiñ Oforsiaalu Jomfrwm (b), fær hañ ad vita hvernueñ þad hefur geinged fyrer þeim. Marger skioota siñe Ydran aa Frest, fraa Morgne til Kvølldz, og allt til þeirrar seinustu Stundar sijns Lijfs, Jaa, allt til þess sijdarsta Puncts Lijfs-Stundareñar. Sialldseingner munu þeir vera, sem koma Ardegis til Guds. Jeg hygg ad flester drage þad undañ þar til Kvølld er komed. Þegar Meñ fiña fyrst til Siwkdoomsins, Leita þeir Læknarans: Eñ ad leita Guds, þyker þeim (maa skie) alltijd noogu Sneñma. Marger kuña ad hafa Vilia til þess ad vera Gooder og Gudhrædder, Þo kañ

þeim

(a) Apoc 21. v. 12. (b) Matth. 25. v. 12.

þeim opt ad ſynaſt þad vera noogu ſnemt ad læta af þvi Jlla. Sneũa MORguns plaga Meñ ad riida a Jagt til ad veida Ville-Diireñ: Hvad fæer eru þeir ſem i Tiima reka fra ſier þau Villu-Diir, Syndernar, Er fiñaſt allt til Of-mørg i Haglende og Takmørkum þeirra Hiarta? Medañ Skiped er heillt, Sioo-Føreñ Ohult, Stiire-Madureñ heilbrygdur, Segleñ ſterk, Vindureñ goodur, liggia allmarger kyrrer a Høfneñe: Eñ þegar þetta breiteſt, og geingur Krabbagaang, verda þeirra Viſter, Er þeir høfdu ætlad ſier til Sioo-Reiſuñar, fordiarfadar. Þad ſem oſs Of-faſt bindur vid þetta hid Tiimaũlega, hindrar oſs fra þvi ad fiña JESum. Þegar Forſtanded er i burt, Siñed er ordeð dofed, Kraptar Hugſkotſins og Liifſins, ſo ſem aũad riwkande Skar, So kañ og Lioos Andagtareñar audvelldlega ad wtſlokna: Þa kañ Mañeſkiuñe ad verda Ohægt um ad bidia, Ohægt ſier ad umvenda: Hier til vilia ſtyrkver Kraptar. Skule Gud ecke fra oſs viikia, hliootum vier ad hallda hønum med ſterkre Trwar-Hønd. Þeir ſiñ hafa þioonad ſiina Liifs-Tiid trwlega

lega i Hoofum edur Herra-Gordum, eru optast i peirra Alldurdoome setter til Roolegheita. Gud vill laata oss pioona sier alla vora Lijfdaga: Eñ pegar Kvølld peirra er komed, verda Guds Barna Laun Himeniñ, og peirra Endurgialld pad eilijfa Lijfed. David vaknade aarla upp af sijnum Syndum (c), aadur eñ hañ hafde vermt pær hiaa sier. Faae Syndernar fyrst Hita Atlot i Ædunum, gaanga pær sliott iñ i Hiartad. Arla byriar peim Mootstødu ad veita, Añars maa vera pad verde helldur seint. Pad Ungur nemur, Gamall hefur. Ardegis liet Abraham Ambaattena Hagar fara i burt af sijnu Hwse (d), Pvi kom Guds Blessan yfer hañ i hañs Alldurdoome, Og ad Kvølde hañs Lijfs-Stunda. Ef vier aarla leitum DROTTeñs (e), fiñum vier hañ (f). Par fyrer vilium vier Snema vakna til DROTTeñs (g), Og aarla leita hañs at MORgun-Tijma vorrar Æsku: Arla a Tijma Raadareñar og Dege Hiaalpræ-

desins:

(c) Psalm. 57. v. 9. (d) Gen. 21. v. 14.
(e) Prov. 1. v. 28. (f) Prov. 8. v. 17.
(g) Esa. 26. v. 9.

desins: Arla aa sierhveriurn Dags-Morgne, So mun hañ Sneiña verda vor Armleggur (h), DRottenn! Arla vilier þu heyra vora Raust (i). Vier liggium fyrer þier med vorum Bœnum. So sem vier hofum aarla þessa Dags MORgun byrjad fyrer þijna Raad, So laattu oss hañ og i þiñe Raad faa ad enda. DROtteñ vor Gud! Þu sem hefur byrjad oss ad hiaalpa, Hiaalpa oss til eirnrar goodrar og æskelegrar Endaliktar, Þu sem ert A og O, Upphaf og Ender, Og Lifer og Rijker ad Eilijfu, AMEN.

(h) Esa. 33. v. 2. (i) Psalm. 5. v. 4.



# XIII. Umþeinking Af Kvølldenu.

Psalm. XXX. v. 6.

Uñ Kvølld-Tijmañ varer Graatureñ, Eñ ad Morgne Dags Fognudureñ.

Þeg-

DEgar Sandureñ er wtrúñeñ wr Stunda-Glasenu, þa er Stundeñ wte, Þegar Sooleñ undergeingur, er KVølld komed: Hver Dagur hefur sitt KVølld, Hver Madur endar sitt Liif Lofsins med Daudanum. Med KVølldenu er Dags Erfided endad: Eñ i Daudanum er þo ecke allt wte um Mañeskiuna: Til þess sem hun giørde i Liifenu, hvert helldur þad hefur vered Gott edur Illt hlijtur hun ad svara epter Daudañ, Og epter þvi Launeñ edur Straffed ad medtaka þa hun kiemur fyrer Doomeñ. Þar verda Illverk þeirra Ogúdlegu endurgollldeñ, og þeim Froomu þad þeir hafa lided at þeim Mæddusama Dege þeirra Liifs, i þvi ad bera Hita og Þwnga-Hørmwngaña, Riikuglega med eilliifre Dyrd og Glede bitalad. Þegar Meñ vænta epter einu goodu KVøllde, kuña þeir giarnañ ad umbera þad; Þo Dagureñ sem lelid, hafe vered stirdur, Þvi nær Endalikteñ er good, þa er allt Gott. Saa sem Viis er, Giefe hañ Gude Dyrdena, adur eñ KVøllded kiemur, og hañ kañ ad steita siina Fætur i Nætt-Myrkrenu.

Abra-

Abraham i þvi Gamla, og Nicodemus i þvi Nya Testamentenu, voru kallader i þeirra Alldurdoome (k), (l). Nu þyker þad hartnær Undrunar vert, ef eirn Graaskieggiadur verdur til Guds umvendur. Hvar fyrer þad er ein torvelld og siallsdsien Konst, ad hata þad ad Endalokunum, sem Madur hefur leinge elskad. Þegar Siukdoomuren er fullkomlega komen i Blooded, stendur Lækningen aa veikum Footum. Þo vil eg øngvan Man lijtelhugadan giøra, miklu sijdur fraa Gudlegre Naad burtvijsa. Gud er bæde Myskunsamur og Riettlaatur: Han sem kallade aa hine Elleftu Stundu, hefur ad sønu Makt aa þeirre Toolftu þaa Ohlijdugu fraa sier ad reka. Þad er vijst, ad saa sem Syndgad hefur uppaa Naadena fram aa KVØlld sina Lijfdaga, hefur hlauped i stooran Haaska, Og er hætt vid ad han mune i Onaad vera, og honum verde Loksins burtvijsad ad KVølldenu, til þess hvertum han hefur allan Dagen þioonad. Nu þo ad Vored sie lided, Sumared aa Enda komed, og Bloomsturen ad øngvu orden, hafe

Tried

(k) Gen. 12. v. 4. (l) Joh. 3. v. 9.

Tried nockurn Krapt epter i Rooteñe, kañ samt Vetureñ Gude ad þocknast, sierdeilis hafe hañ sied, ad nockrar af þeim af-føllnu Greinum hafe Avøxt bored, Pviad hañ er Nærdugur og Myskunsamur, og hañ nuun ecke suwa sijnu Auglite fraa ydur, ef þier snwed ydur til hañs (m). Snarlega ydrar hañ og Straffsins (n). Christur var i soddañ Einu Herberge fæddur, hvar aller mættu iñgænga, þar med audsynande, ad hañ villde medtaka alla þaa sem til hañs kiæme, Unga og Gamla, Rijka og Fætæka. Sw nya Jerusalem hefur og Toolf Port (þad eru Dyr), sem merkia, ad Allstadar ad, og aa øllum Tijmum kuñum vier til Guds ad koma, ef vier færum med oss þad Offur sem hønum er þægelegt. Blooded JEsu Christi hreinsar oss af allre Synd (o), So leinge sem þesse Uppsprettu-Bruñur þornar ecke, þarf eingeñ ad efast. Lærtum oss i þetta Siñ stuttlega telia vora Daga. Munu ecke fleire af þeim hafa meir vered Heimenum þægeleger eñ Himnenum? Munum vier ecke

E hafa

(m) 2. Chron. 30. v. 9. (n) Joel. 2. v. 13.
(o) 1. Joh. 1. v. 7.

hafa meir þioonad Illſkuñe eñ Eiliifdeñe? Vorar Synder eru ad Viiſu fleire eñ Sandureñ i Sioonuum (p), Med þeim høfum vier forþient ſtoora og margfallðlega Olucku. Deñañ Dag høfum vier og ecke helgad Gude Riettelega, epter hañs Villa. Nu er Kvølld komed. Hvad er til Rꝏda? Snw þu aptur, ſnw þu apt ur O Sulamiht! ſnw þu aptur þu hin fraafallna Jeruſalem, So mun og DRotteñ ſnwa ſier til þijn. Þar er eñ nu noog Rwm i Himnarijke, Ef vier flijtum oſs og tefium ecke med vora Ydran. Þar er eñ noog Myſkun hiꝏ Gude: Ef vier leitum heñar med Yferboot og Angre fyrer vorar Synder, mun Gud bera Uñhyggiu fyrer þvi Tilkomanda, og frañvegis øllu forþientu Straffe og Plꝏgum frꝏ oſs ſnwa. Þvi ſeirna ſem vier høfum komed til Syndaña Vidurkieñingar og Apturhvarfs frꝏ þeim, Lꝏtum oſs þvi alvarlegar leita Guds Naadar, og þvi Kappſamlegar frañgꝏnga ꝏ Vege hiña goodu Verkaña, So munum vier nꝏ til þeſs riettaTakmarks, og epter lided Kvølld vorra

(p) Manaſſis Bæn, v. 9.

vorra Lijfdaga, Slaa Dag DRottens med Fagnade aa Himnum.



## XIV. Umþeynking
Af þessu Orde.

# J Dag.

Psalm XCV. v. 8.

J Dag, Ef Þier Heyred Hans Rodd, Þa Forherded Ecke Ydar Hiörtu.

J Dag Lifum vier: J Dag kunnum vier og ad Deya. Ef vier heyrum i Dag Rodd DROttens Voku-Manna, sem kalla oss til Yferbootar, Byriar oss strax ad hlijda hene. Saa er illa staddur, sem sijna Betran fraa þvi i Dag skijtur aa Frest til Morguns. Þenan Dag hefe eg vissan. Hvad aa Morgun kan ad ske, Er miøg Ovijst. Eirn Riett-Christen Madur slæst ecke so sem uppaa þad Ovissa. Hvar fyrer laatum vier þa þad allra Viss

asta vera hiaa oss, sem pad være Oviist? Þeim Ogudlegu er ecke þetta Ord J DAg, allkijd þægelegt. Þeim er kiærara Hrafna-Maaled, Cras, Pad er, A Morgun, So sem þeir hefde Bref fyrer þvi, ad Gud yrde þeim aa Morgun Obrygdanlega Naadugur. Hañ stendur ad sønu med sijna Mys kunseme hvern Morgun fyrer Dyrunum (a): Eñ þegar hañs Myskun er forsiuktud i Dag, kañ hun aadur eñ Morguneñ klemur, og aa Epterfarande Dege ad vera uñbreitt i Eina Grimdar Reide. Pad er ecke eñ nu foked so i Spor þeirrar Gømlu Veralldar, og Gydingaña, ad vier kuñum ecke ad siaa af þeim, hverneñ til hefur geing ed fyrer Guds Naadar Forøkturum. J DAg er vor Tunga fær til ad tala: Hiartad heilbrygdt ad þeinkia: Hendurnar noo gu sterkar til þess, ad vier gietum upplipt þeim til Himens. A Morgun kañ allt þetta ad vera veikt orded, til ad giøra nockurt af Pviliiku. Saa sem J DAg verdur sampyckur sijnum Broodur, og Fridþæger sig vid Gud, hefur sier Goods og Roosamlegs Morgun-Dags ad vænta.
Vier

(a) Apoc. 3. v. 20.

Vier høfum ad ſoñu aa medañ vier lifum Tvær Adgreiningar Tijmans, Sem eru: J Dag, og A Morgun. Su Eina maa nefnaſt Uppgaangur, Su Oñur Nidurgaangur. Su Fyrre aa ad verka þad, ad hin Sijdare verde good. Saa ſem aa Morgun-Degenum vill ecke mæta neirne Olucku, Leite i Dag ſiñar Lucku, aa medañ hana er ad fiña. Þar eru marger Tijmar vors Lijfs uñlidner, ſem ecke þurfa ad wtmaarlaſt med odrum Ordum, Eñ þeſſum: J DAg, og i Giær. A þeſſum Tijmum hefur alltijd aukeſt vort Synda-Regiſtur: Eñ ſo þad verde ecke leingra i vorum Reikninge uppaa oſs ſkrifad, Þa laatum oſs i DAg, So miked ſem oſs er møgulegt, Afmaa þad med vorum Ydrunar-Taarum. Þegar mørgum Triaam er kaſtad i Elldeñ, þa verdur Baaled þvi meira. Þeſs fleire Synder, ſem Mañeſkiañ drijger, þeſs ſtærra Elld DRotteñlegrar Reide uppkveiker hun yfer ſiaalfre ſier. Siaaum vier hañ ecke grimlega baalaſt aa þeſſum Tijmum? Mikell Partur af Nordur-Alfu Heimſins, ſem nefneſt Europa, ſtendur vegna Strijds og Stir

 jalldar

jalldar i Hættu Baals og Bruna. Eñ so þetta nære ecke aldeilis til vor, Lætum oss strax i DAg fra oss kasta Ellds-Mat þessa Bæls, Sem eru vorar Synder, med hverium þad hefur kveikt vered. Saa giefur Tvøfallt, Er fliott giefur. Gud er so Stiñadur, Vid hañ kuñum vier fliott ad forlijkast. Noogu leinge, Ja, allt til Ofleinge, høfum vier framgeinged i þvi sem oss ecke heyrde i vorum Christeñdoome. Nu er Tijme til þess ad vier um̃vendum oss. Lætum J Dag verda Uppbyriun a þvi, og holldum afram̃ alla adra Daga vors Lijfs i þessu Verke. Daglega køllum vier til Guds: Flijt þier DRottеñ ad hiælpa oss. Pad giører hañ Obrygdanlega, Ef vier flijtum oss ad snwa oss til hañs Riettelega. Pau Saar, sem fliott eru bundeñ, groa þvi fliootara. So ad vor Synda-Saar forrotne ecke, og verde um̃ sijder Olæknanleg, þa brwkum i Tijma til þeirra Plaastur Undañdraattarlausrar Yferbootar. Gud er sañarlega alltijd Reidubweñ, ad wtrietta sijna Arm legge i moote aumum ydrande Syndurum, og i siñe Myskun vid þeim ad taka.

Allar

Allar vorar Synder, hveriar vier hofum Herbergiad hiaa oss i Giær, Sieud þier i burt i Dag, og komed ecke aptur aa Morgun, Nie nockurn Tijma Sijdar meir. Þetta er ydur befalad i Krapte H. Anda, vorum Saalum og Lijkømum til Hiaalprædis. J Nafne þess Krossfesta JEsu, skulu þier, vorer af-sagder Oviner! þessu hlijda, A moote hverium vier vilium strijda allt til Daudans. Gud hiaalpe oss, og laate ydur i oss og fyrer utañ oss dempadar verda, Amen.

## XV. Umþeinking

Af þessu Orde,

# A Morgun.

Jacob. IV. v. 14.

Þier Vited Eige Hvad aa Morgun Skie Mun.

 Epter


Pter þvi sem aa MORgun skal skie, bijda Men giarnan: En til MORguns fasta þeir Ogiarnan. Til Olnusu-Manana, þeim sem Men vilia eckert giefa, Segia Allmarger: Ad þeir skule koma aptur aa MORgun. Hver Dagur hefur sitt Kvolld, og ad þvi endudu, epterkomande MORgun. Þessarar Myskunarlausu Verälldar, Medaumkunar MORgun kiemur aa øngvum Dege. So maa saa Aume hlaupa i Dag laanga Vegu, þar til han verdur þreyttur, og Vonarlaus epter sine Hiaalp, og hlijtur aa MORgun Lokfins ad deya: So fryast saa Rijke fraa Umferd þess Faatæka, hvad han vill og ad skie skule. A MORgun skal eg giefa þier (a), Þad er alldrei. Þegar vier bidium Gud nu nockud, Villum vier han veite oss þad, fyrr i Dag en aa MORgun, aa medan vier erum ad kalla til hans: En eins og vier giørum vid vorn Naunga, er riett ad Gud giøre vid oss. Þegar vort hungrad Lijf er Brands Þurfande, Villum vier oss kome fliootlega Biørg af Himnum:
En

(a) Prov. 3. v. 28.

Eñ nær vor Naunge er Naudſtaddur, maa hañ margañ Dag Forgiefens bijda ſiñar Hiaalpar hiaa oſs. So ſem vier vilium ad Gud ſie Siñadur vid oſs, ſkylldunſt vier til ad vera vid Naaungañ. Eñ ſo ſem Hrafnarner hallda vid ſitt Cras, So giører og ſw vonda Mañeſkia i heñar Athøfnum. Þegar hun ſkal giøra Ydran og Yferboot, dregur hun þetta undañ til MORguns. Þad ſem i Dag er giørt, þarf ecke aa MORgun ad giøraſt, Med þvi, ad þvi er af-loked. Þad Efne, Sem vidviſkur vorre Saaluhiaalp, maa ecke hafa nockurn Uudañdraatt. Þvi hættuſamara ſem oſs er i þeſſu, Þvi ſijdur meigum vier Ohultet uñ þad vera til þeſs aa Morgun. Nær aa MORgun, er ad mier leitad, Er eg ecke til, ſeger Job, Cap. 7. v. 21. Vier deyum þo aa MORgun, ſeger Eſajas, Cap. 22. v. 13. Og þa høfum vier ecke Tijma ad giøra þad vier ſkylldum. Vor Skyllda er ad bidia til Guds, Bæde i Dag og aa MORgun (b). Ef vier giørum þetta, meigum vier vera fyrer utañ Sorg fyrer øllu þvi, ſem aa MORgun



(b) Tob. 8. v. 4.

framkiemur. Pad maa segiast, ad Tijmeñ hafe Vænge, Pvi hañ burt flygur so skyndelega. Ef vorar Bæner og Vetran hefde þaa eirneñ, munde Hiaalp DRotteñs, Epter hverre vier høfum leinge þreyd, fliootlega og so sem flïwgande til vor koma. Eingeñ skyllde reida sig uppaa þad sem eckert er: So er øll vor Lucka, Allt vort Stand, Øll vor Hefd og Æra. Kongur i Dag, Daudur aa Morgun (c). J Dag kuñum vier nockud ad vera, A MORgun (ad segia) eckert. Eirn Riett-Christeñ Madur hurar meir um þad, hvad hønum mune giefast i þeirre sælu Eilijfd, eñ hvad aa MORgun skal framkoma. Hañ hefur ad soñu Tvo Daga, Sem eru, J DAG og A MORGUN, aa hverium hønum er eins vijst Lijfed og Daudeñ: Ad vera hier, og vid ad skilia. Hañs Morgun-Dagur er komeñ, þegar Daudeñ kiemur, Og fær er hønum med sier Lijfs og Saalar Føgnud og Farsælld, og Boot aa øllu þvi hinu Vonda. Po ad hañ um Kvølld, Morgna og Middege, meige graata (d), og hañs Hegning sie a hveriunt Morgne (e), hugg-

ar

(c) Syr. 10. v. 12. (d) Psalm. 55. v. 18.
(e) Psalm. 73. v. 14.

ar hañ ſig vid þad komande Dags Lioos, ſem øll haňs Sorgar-Myrkur muune i burt drijfa, Og marga Hrygdar-Daga med eilijfre Glede uñbuna. Guds Myſkunſeme hefur ongvaň Enda, Helldur er hun hvern Morgun ny (f). Gud hefur lœted oſs af-lifa þeñan Morgun, Og ſo leggium vier eirn Morgun ſem kiemur epter aňaň, til ad auka vorn Alldur, og hver Morguneñ ſem uñlijdur ſtytter Lijfed. Pad er ein riett Dygd Gudhrœdſluñar, Ad vier alla Morgna ſiuum œ oſs nya Avexte Chriſtelegs Lijfernis, og burtrekum Daglega frœ oſs Syndernar, þœr i oſs hafa bwed. Ef vier giorum þetta, Er eckert vorra Dags-Verka til Oniitis. Alltijd eigum vier, Bœde i Dag og œ MOrgun ad dempa þaň gamla Adam, Og nyaſt i Anda vors Hugſkots, Sem af ſege Holldſins Pioonuſtu, ſo ad vier med þvi meire Alvøru og Fognude kyñum Gude ad þioona. A einu Are kaň margt ad forſoomaſt, ſem œ Morgun kiemſt ecke i Lag. Sie ſo ad eingeñ vilie virda oſs þeſs ad bidia oſs uñ Hiœlp i Dag, villum vier ſamt med Good-

(f) Thren. 3. v. 23.

Goodvillia aulijta hañ, og honum med Hiarta og Hende viliuglega Hiaalpa, Svo mun Gud aptur at moot Myſkuna ſig yfer oſs, Bæde i DAg og at MORgun, Og Morgun-Dagureñ mun fyrer ſier ſiaalfum Umhyggiu bera (g), Eñ Gud fyrer oſs øllum.

(g) Matth. 6. v. 34.

## XVI. Umþeynking Af Stunduñe.

Luc. XXII. v. 53.

Þetta Er Ydar STund.

MEgna Eirnrar vondrar Stund ar, ber Strijds-Madureñ hvern Dageñ wt Sverdid at Sijduñe. Vier vitum ecke nær ſu vonda Stund kiemur (a), og erum þo (kañ vera) Mikeñ Part Vareygdarlauſer. Gud hefur lofad ſijnum Chriſtnum,

(a) Eph. 6. v. 13.

num, ad hañ villde Hertiga þar, og þad so leinge sem þeir lifa, so ad þeir kyñe ad ber-iast goodre Baraattu, og ad Endalokun-um med hañs Syne ad ødlast Coronu Dijrdareñar. Jlla erum vier þa stadd-er, Ef Stund Freistingaña hitter oss Vopnlausa. Munu þeir þo ecke lijka vel Allmarger fiñast, sem leggia af sier Vopn-eñ, þa Fridur er i Landenu? Hver þeir kuña ecke so fliootlega ad taka aptur þegar Strijded er komed. Marger sofa med Petre i Oliu-Gardenum, So sem saa Hel-vijtske Judas være ecke i Naand, sem oss er þo alltijd naalægur. Hver Stund er añ-are lijk, Fyrer utañ þad, ad Gud reyner ecke alla aa hverre Stundu. Og hver hefur giort oss vissa um̃ þad, ad Ein øñur Stund kome epter þessa? Fyrer mørg Hundrud Arum hefur Johañes þetta pre-dikad: Barna-Korn, Su Sijdasta Stu-nd er (b). Þvi fleire Stunder sem vier høfum sijdañ lifad, þvi færre høfum vier oss þeirra ad vænta til þess Sijdarsta Da-gs. Hvad snart ad vor Dauda-Stund mune koma, er aldungis Ovijst: Eñ þad er

(b) 1. Joh. 2. v. 18.

er Obrygdaũlegt, ad hun er aa Vegenum: Hvert helldur hun fer so sem Footgaangande edur flugande, vitum vier ecke. Eirn og Sierhver take Vara aa sialfum sier, ad hañs HErra siñe hañ svo aa sig komeñ, sem hañ vill hafa, Og hañ sialfur sie svo sem hañ villde vera aa þeim Seinasta Doomsins Dege. Margar Stunder laat um vier lijda, aan þeß vier giorum neckud Gott, Og hliootum þo til þeirra allra ad svara. Aller Hluter hafa siñ Tijma, og allt Aform under Himnenum hefur sijna Stund (c). Eñ Gud skipter uñ Tijmana og Stundernar (d), Svo þær goodu Stunder, sem vier gyrnunst, koma ecke alltijd yfer oß, helldur hinar, ad hverium vier høfdum ecke gaad. Er ecke margur hver, aa medañ hañ er heilbrygdur, Hurunar lijtell uñ þad, ad so nær sie komed hañs Dauda-Stundu (e): Eñ svo ad vier drøg um oß ecke aa Taalar i þvilijkum Paunkum, Er Ohultast, ad hallda hveria Stund ena þa Sijdurstu, og draga eckert undañ til þeirrar komande Stundar, helldur aa·

Nær·

(c) Præd. 3. v. 1. (d) Dan. 2. v. 21.
(e) Syr. 11. v. 19.

Nærverande Stundu ad verka þad allt, sem oss kañ til Gooda ad verda, Og þad ædur eñ su Stund kañ ad koma (f), æ hverre hverke Muñureñ eda Hiartad kañ ad giora þad sem skyllde. Sæ sem wtgieck um Pridiu Stund, giørde þad og uñ þa Siøttu og Nijundu (g). Af vorre Dauda-Stundu veit eingeñ Madur (h), Ecke helldur nær Stund Freistingaña kañ ad Høndum ad koma, edur Stunder Hrygdar og Mootlætinga. Himeneñ sem i Dag er biartur og heidrijkur, kañ æ Morgun ad vera huleñ med myrkvum Skyum, og ædur eñ Kvølld er komed, kañ ødruvijse ad verda; eñ þad var i Morgun. Vier vitum ei Daga nie Stunder (i). Þar fyrer skyllde hver Ein Stundeñ vera oss, Ein Uppvakningar-Stund (k). Vier lijdum Mædu, allt til þessarar Stundar (l), Og med oss margar Þusund Mañeskiur i Verølldeñe: Og hver veit neiña su þijngsta Mædu-Stund muune hier epter yfer oss koma? Ef vier Ottunst Gud og hølldum hañs

(f) Syr. 38. v. 13. (g) Matth. 20. v. 3.
(h) Matth. 24. v. 36. (i) Matth. 25. v. 13.
(k) Rom. 13. v. 11. (l) 1. Cor. 4. v. 11.

hañs Bodord, mun Gud hallda oss vid aa Stundu Freistingareñar, og epter mørg Þusund illar Stunder, mun saa eilijfe Fagnadar-Dagur yfer oss uppreña. Segul-Steirneñ er alldrei kyr, þaangad til hañ hefur snwed sier til Nordursins. Eirn Christeñ Madur fiñur øngva Roo, fyrr eñ hañ kiemur til sijns Endurlausnara JEsum. Vier vilium Hiartañs fegner bijda epter hønum fraa Eirne Stunduñe til Añarar, Og laata øngva þa Stund lijda, aa hverre vier sendum ecke vorar Gudrækelegar Hiartans Andvarpaner til Himmens, ad hañ vilie Loksins frelsa oss fraa øllum Illum Døgum og Stundum. Þesse vor Bæn mun alldrei verda til Forgiefens. Veit oss þad vor Gud, fyrer þiñ Son JEsum Christum, Amen.



# XVII. Umþeynking Af Augnablik-ENU.

Esa. 26.

Esa. XXVI. v. 20.

Geym þig um̃ lijted AUGnablik þar til ad REiden̄ er hiar geingen̄.

Nu Einu AUGnablike sijnde Diofullen̄ vorum Endurlausnara JEsu øll Rijke Verallldaren̄ar (a). Po þeim, sem vilia heita Gøfuger og stoorer i Verølldeñe virdest sijn Makt og Metord, meiga vara um̃ mørg Ar; Pa er þad þo ecke ad reikna, nema svo sem um̃ Eitt Augnablik. Þusund Ar eru fyrer DRottne sem Eitt Augnablik. Og þegar vier ertum komner til þeirrar Sælu Eilijfdar, mun oss ecke um̃lidenn Tijme vorra Hørmunga virdast ad hafa vered leingre, en̄ Eitt Augnablik. Hvad sæll er sa, sem a Einu Augnablike skilst vid Verølldena, Eñ lender i Himnenum? Vier ættum ad hallda makslega allt vort Lijf, Sem Eitt Augnablik. Augunum kun̄um vier ad ren̄a i Dag, En̄ a Morgun verda þau (mask[ie]) aptur-lokeñ. J Natturlegum Svefne lyktum vier aptur Augun. Ahverium Dege kan̄

F þad

(a) Luc. 4. v. 5.

þad so til ad falla, ad vier lykium þau til fulls i Daudanum, Þviad lijka so sem Svefneñ fellur opt aa vor Augu Oforvarandis, So heimsæker oss Daudeñ þess aa mille, aadur eñ vier hwunst vid hañs Komu. Marga sæker hañ i Einu Augnablike, og kuña marger þeir ad fiñast, er aa þessu Augnablike taka ei riettañ Vara. Flester þeir, sem leggia sig til Svefns, nu nu þeynkia, ad þeir kuñe ad standa upp apt ur: Eñ med þvi þad er ecke vijst, ad þeir fææ aa Ny uppløked sijnum Lijkamans Augum, Sæe þeir vel fyrer, ad þeir vegna þess Ovissa, sem yfer þa kañ ad koma, medañ þeir eru Lifande og Vakande, twtvelie sier Eitthvad þad vijst, sem þeim er til vissrar Huggunar, epter þad ad Verollden er forgeingeñ. Allt er þad Forgeingelegt, sem vier høfum: Allt er þad Fallvallt, er vier siaaum. Mørgum verda þeirra eigeñ Augu til Hneixlunarlegrar Blindne: Þad sierdeilis, þegar þeir J-mynda sier Eitthvad Liott, So sem þad være fagurt, og Eitthvad Forgeingelegt, sem þad være Stadfast. Epter Mañlegum Hætte høfum vier kiært þad vier siaaum, og hvad oss

þyker

þyker Pægelegt fyrer Augunum : Eñ kome þar til Upplijsing Hiartans, og vier aılijtum þad med þeirre hlıñe Jñre Andlegu Slooneñe, sıaunm vier strax Mismun a þvi Svarta og Hvijta. Þau Jllalucktande Bloomstur hafa hiñ besta Lit, So sem þau hefdu og hina bestu Jlman. Pær verstu Bækur hafa opt þañ stærsta Titil. J Verolldeñe skijler sier sa Oheile Kroppur med Silke og Flugele : Og sa verste Metall, verdur opt med hlıñe fegurstu Gyllingu prijddur : Eñ hverneñ sem þetta geingur i Heimenum, eigum vier ecke ad aıljta þad, epter þvi sem þad sijnast kañ Utvortis, helldur hverneñ þad i Raun og Sañleika er. Fyrer Mañañа Augum skijna marger Hluter hid Jtra fagurlega, sem þo eru hid Jñra sem fwlar Grafer daudra Maña. Og jafnvel þo allt þad sem Stjnelegt er, kyñe ad vera epter Natturuñar Hætte fullkomed, blijtur þad þo Lofsins ad øngvu ad verda. Vort Lijf er Reyndar sem Ett Augnablik, og a Einu Augnablike kuñum vier umskipteleger ad verda (b). Ad þesse Um



(b) 1. Cor. 15. v. 52.

skipte verde ofs ecke ad Illu, so ad vier fyr-
er þau skilium vid Glede Verålldareñar,
Eñ rotum i Hrygd Fordæmingareñar,
Liggur ofs æ þvi, ad vier æ hveriu Aug-
nablike lijtum til vors eigeñ Lijfs, og giæt-
um ad hvert voru Synda-Registre mune
koma samañ vid Guds Reikningskap, og
hvert vier munum kuña ad standast med
med þad fyrer honum, edur ecke. Snart
kañ þad Sijdarsta Sand-Korn ad vera
ruñed wr voru Tijma-Glase; og vor Lij-
kame fliootlega ad nidurleggiast i Jørd-
ena, Hvar ed hañ skal ad Dupte verda.
Vora Daga kuñum vier ecke ad leingia
frañ yfer Guds Villia, Og sæ hefur vel
sied fyrer þeim, sem skickar sier svo æ hver-
ium Dege, ad hañ, þegar Eilijfdeñ byr-
iast, verde settur til Guds Sonar Hægre
Handar. Vor Glede, hverrar vier hier
niootum, varer Eitt Augabragd (c), Eñ
Pijna Ogudlegra hellst vid Eilijflega.
Þeir upprijsa ad søñu Sijdarmeir aller,
sem sig hafa hier lagt til Svefns i Grof-
unum: Eñ þeir iñgæanga þo ecke aller i
þa Tialldbwd, Sem ei er med Høndum
giørd,

(c) Job. 20. v. 5.

giord, helldur Eilijf at Himnum, Pvi sumer munu þa framgaunga til Doomsins Upprisu (d). En so ad vier hittum fyrer þan riettu Fridarens Hws, þegar vier skilium vid þesse vor Daudlegu Eymdar-Hreise, Villium vier strax a þessu Augnablike, fyrer Riettelega Ydran og Yfer-boot, koma oss i Saatt vid Gud, So ad han a voru Sijdarsta Augnablike, nær oss kan eingen Mannleg Hiaalp ad stoda, sie vor Seinasta og Heilsusamasta Huggun. Ef vier skylldum þaangad til, hans vegna, nockud lijda, Pa Hugbreistum oss þar vid; ad DRottenn yfergiefur oss ecke um Eitt Augnablik. Og hans Reide var er um Eitt Augnabragd (e), Og þegar vier høfum geymt oss um Eitt lijted Augnablik i Grøfunum (f), þar til aller Reide-Stormar eru framhiaa oss geingner, Mun sw Himneska Fagnadar Sool oss upprenna, Og þad Eilijfa Augnablik vorrar Glede at Himnum alldrei Enda taka.

(d) Joh. 5. v. 29. (e) Psalm. 30. v. 6.
(f) Esa. 26. v. 20.



# XVIII. Umþeynking Af þvi Umlidna.

Psalm. CXLIV, v. 4.

Madureñ Er So Sem Eckert. Hañs Dagar Eru Svo Sem Umlideñ Skugge.

Ess sem Uñlided er, hafa Meñ ei leingur ad vænta: Pad Epterkomanda er Ovijst. Peim nyu Sparsögnurum uñ epterkomande Tijma, er ecke ad trwa. Vijst kañ þad ad ske, ad eg lise til Morguns, Lijka vel ad þad verde ecke. Sa sem er Hyrdulaus uñ sijna Velferd, veit ecke hvad bagt hönum kañ ad veita þad ad naa Vist arveru aa Himnum. A Umlidnum Tijmum, og allt hijngad til hefur Gud hiaalpad oss: Eñ hvert vier skulum leingur vidhalldast, Og ad hañ vilie framvegis leida oss aa vorre Jardneskn Vegferdar Reisu, med sama Hætte og hñ hefur hier til giort,

Pad er oss Ovijst, og eingeñ hefur feked Bref fyrer þvi. A Umlidnum Tijma, til Naalægrar Stuudar, høfum vier, aan Efa, stoora Sumu Himen-hroopande Synda laated Gud hia oss sia og formerkia: Og til ad bevijsa þetta uppaa oss, þarf ecke ad fletta upp nockrum ødrum Bookum, Edur leida þar til nockur oñur Vitne eñ vora eigeñ Samvitsku. Skyllde vor Gud laata sier þocknast, ad vier framhølldum leingur aa vorre Lijfs-Reisu til Daudans, Pa høfum vier ad hwast vid þvi, ad þar mune alltijd aukast vid Skulld vorra Synda, So ad hun verde æ meire og meire, allt þaangad til ad oss være Omøgulegt ad vita hana, Eñ sijdur nockra Fullnægiu fyrer hana ad giøra. Vorar Synder eru ein Handskrift aa moote oss. Hvar med villum vier afmaa þessa Hand-Skrift? Ecke kañ ein Blij-Hvijta hier til ad duga; Eingeñ Krijt, og eckert añad, eñ saa raude Steirn JEsu Christi dijrmætrar Forþienustu. Ef vier høfum hañ hier til, verdur af Pusund, til hverra vier kuñum ecke einu ad svara, og hefdum orded i þau eillijfu Myrkur ad wtkastast, alls eck-

ert. So Fullkomlega betalar JESU Blood fyrer oß, So hreint græder þad øll vor Synda Saar, ad af þeim ſieſt ecke epter hid minſta Or i eilijfu Lijfe. Vor Betalingur er Ogilldur: Þo erum vier ſkyllduger ad Blooda þad ſem vier høfum til, medañ oß er Tijmeñ giefeñ, Sem ad er eitt Harmþrwnged og Sundurkramed Hiarta (a), So verdur øll Skulldeñ fyrer vorn Endurlauſnara af Gude uppgiefeñ. A þeim um̃lidna Tijmanum hefur Gud audſynt oß ſijna Myſkunſeme. Til Lands og Vatns høfum vier uppreiſt vor Sigurmerke. Ad hañ mune uña oß þeſſa fram̃ vegis, þurfum vier ecke ad efa. Hañ ſem hefur hid gooda Verked vid oß uppbyriad mun þad og eirneñ fram̃kvæma, ſier til Oendañlegrar Dyrdar, So framt ſem vier ſpornum vid, ad læta oß framar henda þvilijkar Synder, ſem vier høfum a Um̃lidnum Tijma i moote hañs Vilia drijgt og framed, Þvi þar i er iñefaleñ ſw rietta Yferboot og Ydran. Um̃ þeñañ ſallta Sioo ſveimar til vor øll Heill og Bleſſan. A um̃lidnum Tijma hafa marger ſo und-

añ

(a) Pſalm. 51. v. 19.

añ oß geinged, ad betur skyllde vered hafa: Mørg Faavitska, Veikleike og Illska hefur sig i Tielaated, Lijka vel hefur Gud aptrad sier ad slaa oß hardlega med sijnum Reide-Vende; Og þar ad auke hefur hañ audsyndt oß so margfallda Oteliande Naad. Ef vier umvendum oß nu vid þetta, og giorum hier epter Verk Gudhrædsluñar, Mun Gud giefa voru Lande og Lydum Lucku og Bleßan: Eñ añars hana fraa oß taka. Hañ Nidurlæger og Uppheffur: Hañ Giefur og Burttekur; Miñstu aa hina fyrre Tijdena, og allt til þeßa, Og hygg ad þvi hvad hañ giorde þeim gømlu Fedrum seger Moyses, Devt. 32. v. 7. Alldrei hefur saa nockur yfergiefeñ vered, sem sig hefur reidt uppaa DRotteñ. Eñ hveriu vilium vier borga Gude þa Hiaalp, sem hañ hefur aa umlidnum Tijma veitt oß? Vier vilium med Samuele uppreisa DRottne eirn Stein, sem heiter Ebenezer, þviad allt hijngad til hefur Drotteñ hiaalpad oß (b). Hvar eigum vier ad setia hañ? J Miñis-Plaatz vors Hiarta, So ad Israel og Jacob þeynke þar um,



(b) 1. Sam. 7. v. 12.

Þviad Gud hefur giørt vid oſs mikla Hlute, og mun giøra þa eñ meire hier epter, ef vier gøngum fyrer hønum i Riettlæte og Heilagleika vora Lijfdaga. Mijner Brædur og Syſtur! Hijngad til høfum vier lifad Umlidna Daga: Eñ hvert vier faaum þa fleire hier epter lifad, er ecke i neins Mañs Heila ad vita. Vier villum bidia Gud ad giøra oſs Ohulta hier uñ, Fyrergief oſs, O DRotteñ! þad ſiñ Umlideder, og vier høfum aa moote þier giørt, fraa vorre Vøggu og allt hijngad til, Mikled og Lijted. So vilium vier glader, ad endudum þeſſum Dege, leggia oſs til Svefns, A Morgun mun Gud uppvekia oſs og framleida epter ſiñe Velþocknan, oſs til hins Beſta, Veit oſs þad, vor Gud, hvers vier þig bidium, AMEN.



# XIX. Umþeynking

Af þvi

# Maalæga.

Edur

Edur þessu Orde.

# NU.

Gen. XXVII. v. 8.

So Hlijd NU Son Miñ Mlñe Roddu, Hvad Eg Skipa Þier.

Þessu Ordkorne NU kañ eingeñ ad skipta, Þvi þad er eins Atkvædis Ord. Ef ad vier athugum alla vora Lijf Daga, þa eru þeir lijka sem Eitt Atkvæde ad reikna. Þad sem NU er, lijdur skyndelega. Tijmeñ burtlijdur fliott: Vier eirneñ med honum. Þetta Ord NU, sem eg sagde, stafast ecke nema i Einu Atkvæde, og syner oss þañ naalæga Tijma. Hver veit, hvad margar edur faaar Stunder vier høfum epter Olifad? Þetta Ordkorn NU, er Eitt lijted Ord, Þo hefur þad ecke litla Meining, helldur er þad miøg vigtugt. Miñstu NU þar fyrer aa þiñ Skapara, aadur eñ þeir Vondu Dagarner koma, og Areñ naalgast, uñ hver þu segder: Þau þock-

naſt mier ecke (a)? Þvi þu veitſt ecke, hvad fyrer Eina Dauda-Stund, hvad fyrer Eina Freiſting, ſu Nærſta Stund mune laata þier ad Høndum koma. Þeink tu NU uñ, ad þijn Skyllda wtheimter þad þu hallder þier vid Gud: Hañ uñfram̃ allt ad Elſka og Gyrnaſt, So ad þu hafer Hlutdeilld med hønum Sijdarmeir i Himnarijke. Jeg ſege aptur: Miñſtu aa þiñ Skapara, Fødur, Son og Heilagañ Anda. A Fødureñ, So ad þu þecker hañ, Og hafer Sameining med hønum: A Soneñ, So ad þu trwer aa hañ: A Heilagañ Anda, Ad þu heyrer hañs Rauſt og hlijder hønum: Eñ ef þu heyrer ecke i Dag Rødd DRotteñs (b), Kañ audvelldlega ad ſkie, ad þier veite þijngra ad heyra hana aa Morgun, og kuñer ecke þar epter til Himneſkrar Hvijldar i hañs eilijfre Dyrd ad iñgaanga. Lærdu þar fyrer i Tijma, og Nu ſtrax, ad betra þig, Og laat þig ecke Forherda af Svikræde Syndareñar (c). Siaa, NU er ſaa þægelege Tijme, Siaa, NU er Dagur Hialpræde-

(a) Predik. 12. v. 1. (b) Hebr. 3. v. 7.
(c) Hebr. 3. v. 13.

aalpræðesins (d). Liðe hañ uñ Hønd Einnsiñe, kañ það að skie, að hañ kome ecke aptur Oðru Siñe. Eirn goodañ Vind lætur eingeñ forsooktur Skip-Herra so burtliða, að hañ neite ecke siñar Siglingar. Eirn Forsiaall Christeñ Maður, slepper eñ siiður þvi Tækefære, sem hañ hefur Nu, Að kleppast aa Hofn eilijfrar Saaluhiaalpar. Kaupmaðureñ lijtur epter þvi Fyrsta Tækefære að selia siina Voru, og faa hana aptur betalaða: Akur-Maðureñ tekur Vara aa þvi, að Saa og Uppskiera. A riettum Tijma hliootum vier að Saa, Ef vier i Eilijfðeñe villum hafa Not af þeirre Himneskū Kornskieru. Jeg maa meina að þesse Tijme sem Nu er, sie miñ hiñ siiðarste; Þar fyrer vil eg hallda þvi eg hefe, og yðka það Gooða aa meðañ eg kañ það að giora. Verla Himensins verður ecke til Kaups, Nema aa riettum Tijma. Saa sem ecke kauper Voruna þegar hun er til Sølu, hindrar siñ Abiñing. Sie Tijmanum tapað, Er allt tapað. Ef þeir Fordæmdu feinge hañ aptur i Helviite, Hvað mundu þeir þa ecke fegner

(d) 2. Cor. 6. v. 2.

fegner giøra? Eñ ſeint kiemur Oſbiñum
Naad i Hug: Þar Klaga þeir forgiefens,
Þar Andvarpa þeir til einkis. Þiefull-
eñ kieñer ſijnum Skoola-Bornum þetta
Ord, A MORgun, Og þar fyrer hallda
þau vid hid ſama, og brwka Tijmañ fyrer
utañ nockra Þeynking uñ Eilijfdena.
Chriſtur hefur kieñt þad ſijnum Læreſvei-
num, Ad þeir ſkule ærla leita ſijn, Og ſo
ſkule þeir fiña ſig. Þar fyrer vil eg i Dag,
NU ſtrax, Snwa mier til DROTTeñs.
Þeir Chriſtnu erū rlettilega kallader Børn
Soolareñar, Ecke þeirrar Naatturlegu
edur Forgeingelegu, helldur þeirrar eilijfu
Riettlæteſins Soolar. Sooleñ ſtendur
alldrei kyrr. Vort Siñe ætte alltijd ad
vera ſo ſem æ Hlaupe, til þeſs vier faaum
komeſt til þeirrar Himneſku Soolar Ri-
ettlæteſins. Epter endada Reiſu hvijl-
aſt Meñ hvad roolegaſt. Epter afſtadna
Vegferd vors Lijfs hier æ Jorduñe, faa-
um vier ſæta Roo i Naadar og Dyrdar
Skaute vors Himneſka Fødurs. A Mor-
gun kañ Myſkunar Dyrunum ad vera ap-
turlokad, Og þeſs Himneſka Konungs
Naadar Spijra, verdur þa, maa ſkie, ecke
wtriett.

utriett. Og þvi vil eg NU taka þad Tækefære, Er mier giefst, og koma til mijns Guds, a medañ hañ añ mier Jñgøngu. Jeg vil ecke med Felix (e), nockurn Frest utvelia til miñar Betruñar, so ad eg ecke med honum rate i eilijfa Olucku. Gud sem ad hefur lofad mier siñe Naad, þegar eg uñvende mier til hañs, hefur alldrei heited mier þvi, ad leingia mitt Lijf til þess Tijma, a hverium mier sialfum er þægelegast Yferboot ad giøra. Jeg vil taka þad vissasta, fyrer þad sem Ovijst kañ ad vera. J Dag og NU er miñ Tijme, Þvi sny eg mier til Guds, So mun hañ aptur snwa sier til mijn. NU vil eg byria ad giøra þad hid Gooda, og betra mig aadur eñ eg dey. Eñ ef þier skulud deya NU i Dag, Hvar er þa ydar Betrán? Hver hefur sagt, ad vier skylldum lifa med Jsaac, þangad til vor Augu eru myrk ordeñ (f). Siaed vel til a medañ ydar Augu kuña ad sia, ad þier giæted ad þvi, hvad til ydar Fridar heyrer, og opned þau lifande, So ad þier sofned ecke i Daudanum.

(e) Act. 24. v. 25. (f) Gen. 27. v. 1.

# XX. Umþeinking
## Af þvi
# Epterkom-anda.

Devt. XXXII. v. 29.

O! Være Þeir Hyggner, Og Kyñe Ad Formerkia Slijkt, So Ad Þeir Underſtæde Þad, Hvad Yfer Þa Mun Hier Epter Koma.

Egar Þokañ er, Siijnaſt Borgar-Turnarner og adrer Hluter Hærre og Stærre, Eñ þeir eru. Þoka þeirrar ſkamarlegu Vondſku vors Lijfs giører þad, ad vier ſiaaum ecke hvad nærre oſs ſie þad litla Hreiſe vorrar Lijk-Kiſtu, J hveria vier eigum ad leggiaſt. Vier erum fra þvi i Giær Dag (a). Vort Lijf er ſem Dagureñ, ſa i Giær umleid (b). Hvad faaer þeynk-ia

(a) Job. 8. v. 9. (b) Pſalm. 90. v. 4.

la um̃ þad, Er at Morgun kan̄ ad ſke?
Hvad faaer giora ſier Samvitſku af þvi
ſem ſijdarmeir mun yfer þaa koma? Peñ-
an̄ Naalæga Tijma hafa þeir til þeſs, er
þeir vilia, So ſem þad gillde einn hvernen̄
ſer um̄ þan̄ Epterkomanda. Þad ſem
Upphaf hefur, þad hefur og Enda. Þetta
ſkyllde Man̄eſkian̄ laata ſier Daglega til
Hugar koma. Vier vitum nær vier er-
um fædder: En̄ eingen̄ veit, nær han̄ ſkule
deya: Þo mun þaa fara ad fin̄a, ſem hafa
byriad ad deya ſiaalfum ſier og Verolld-
en̄e, aa medan̄ þeir hafa lifad: So ſem
Maduren̄ være fullviſs um̄ þad, ad han̄s
Endalykt kyn̄e ecke ad verda ön̄ur en̄ good.
Margur kan̄ ad bera Sorg fyrer þvi, hver-
nen̄ þad mune tilgaanga Epterkomande i
Verollduñe: Hvillijka Endalykt, ad Strijd
og Bardagar mune hafa, og hvernen̄ han̄s
Vinum, Nidium og Aſt-Mon̄um mune
gaanga aa þeim Epterkomande Tijmun-
um. Ef vier framgeyngium aa Guds
Vegum, og beſdum Um̄ſorgun fyrer ſiaal-
fum oſs, munde hitt an̄ad vel af-leidaſt.
Vier hofum Um̄ſorg fyrer voru Hwſe,
hvert helldur vorer Um̄ſioonar-Men̄ giora
 þad

þad edur ecke. EPterkomande er, Pad Mañsins Son mun koma (c). Munum vier vera Vidbwner ad standa frame fyrer honum? Straffed fylger Syndunum, Doomureñ er Epterkomande. Hvad vilium vier til giøra, So ad vier kyñum ad flya undañ tilkomande Reide? (d) Upprisa Framlideña kiemur aa epter, Bæde Riettlaatra og Raanglaatra (e). Erum vier aller vísser uñ þad, ad vier munum upprijsa til Eilijfs Lijfs? J hvern þañ Stad, sem Eykeñ fellur, þar liggur hun. Epter þvi sem vier deyum, epter þvi upprijsum vier: Eñ so vier kyñum ad flya Epterkomande Reide, Laatum oss leita þeß Tilkomanda (f), aa medañ Dagureñ er, aa medañ Soolar-Birtañ lyser oss, og aa medañ þesse Dagur er uppruñeñ oss til hiñs Gooda. Gud befur eñ nu þad hvijta Fridar Merke upphafed vor aa medal. Ef vier sinnum oss i Tijma til DRotteñs, munu þeir Tilkomande Tijmar, verda oss til Glede og Farsælldar, bæde i Tijmanum og Eilijfdeñe, og alldrei oss til Fordæmingar

(c) Matth. 24. v.30. (d) Luc. 3. v. 7.
(e) Act. 24. v. 15. (f) Hebr. 13. v. 14.

gar verda. Eñ ef vier gioruin þetta eige, Hvers añars hofum vier þa ad vænta, helldur eñ hrædelegs Epterkomande Straffs, So sem vier forþienad hofum? Guds Reide breñur yfer þeim Ydrunarlausu allt til nedsta Helviijtis. Eñ hañs Myskunseme varer Æfeñlega (g). Og hañs Sañleikur um Alldur og Æfe (h). Mijn Umforgun skal vera, ædur eñ eg fer þaangad, hvar eg skal verda Eiliijflega (i). Ad eg verde iñlæteñ uñ Dyr Himnaña, Þar ed eiliijf Glede mun vera yfer Hofdum allra Riettlætra (k), Þar ed Gud med eiliijfre Myskun mun þeim Myskunsamur vera (l). Eñ hvorneñ kuñum vier þaangad ad komast? Uñ Veg sañarlegrar Hliijdne vid Gud, Hañ hefur fyrerheited oss þvi eiliijfa Liife (m), Ef vier gongum i Footsporum hañs Kiærleika, i þvi ad hata Syndena og Diofuleñ: Gud og christelegar Dygder ad elska. Vier þurfum hier ecke nockurn astañ Vegviijser, epter hvertum vier skulum gaanga iñ i þad Himneska Zions Slot,

G 2 Nema

(g) 2. Chron. 5. v. 13. (h) Psalm. 100. v. 5.
(i) Predik. 12. v. 7. (k) Esa. 35. v. 10.
(l) Esa. 54. v 8. (m) 1. Joh. 2. v. 25.

